[Þess íslendska evangéliska smábókafélags rit Nr. 27.]

# Sjø Viku Sálmar og Bænir, til Frelsarans, út af hans pínu;

sem brúkast meiga, ef vill, eptir húslestra; einkum á føstunni.

(Af útgéfaranum.)

---

## 1te Sálmur.

Jesú at hjarta' eg þacka þér» þinn dauda' og beiska pínu»; hvørja þú leidst til líknar mér«, á lífi manndóms þínu»; svo ad þíns Fødurs feingi nád» þess fallna mannkyns brot afmád»; ad óveikri veldi stríu.

O hvad sárbitur sút og kvøl» sálu magnadist þinni» í grasgardinum, svo vard ei vøl» á værd edr róseminni»; blódugur sýndi sveitinn þad», sem af þér dundi' í tédum stad»; allt til góds øndu minni.

Svo margar hafdi' eg syndir drýgt«, í sálar fylsnum mínum», ad þín sála vard ad þola slíkt«, í þaunkum og grunni sínum;« fridþæging er því

feingiu mér», Frelsari minn! ef treysti' eg þér» og hlýdnast ordum þínum.

Þhugan láttú ángurs þíns» — eg svo Guds fridar njóti» — hepta þá gledi hjarta míns», sem hjarta þín' er á móti»; láttú mig sorg af synd» þiá», svo eg þeim aldrei ginnist á»; né heilög þín bodord brjóti.

Uppvek þú Drottinn audmjúkt þel» og andagt í mínu gédi», ad eg bidjandi vaki vel», sem vinum þínum tilrédir»; í freistíngum géf mér trausta trú», til míns dauda mig undirbú», svo eilífa' eg ødlist gledi!

## 2 t e B æ n.

O Herra Jesú Christi! þú sonur Guds! þú sem í heiminn kominn ert, synduga menn sáluhólpna ad gjøra. Eg þacka þér af øllu hjarta, fyrir þína blódugu pínu og bitra dauda, sem þú leidst, svo vel mín, sem allra Adams barna vegna, til þess þinn himneskur Fadir gjæti, ad óveiktu sínu herradæmi og óskerdtu sínu løgmáli, tekid mig og alla þá syndara til nádar, sem í sannri ydrun fyrir sínar yfirtrodslur, og lifandi trú á þína fridþægíngu, hennar hjá honum leita. Sér í lagi þacka eg þér fyrir þá sárgrætiligu kvøl, er þú leidst á þinni heil. sálu í grasgardinum Gethsemane, þegar þú, titrandi af hrædslu, qvartadir yfir því, ad þín sála væri svo hrygg, ad þú

ætladir ad deya. Med þessari písl, hefir þú sér í lagi lidid og fridþægt fyrir allar þær óteljandi syndir sálar minnar, er hún med saurugum girndum og sosvirdiligum þaunkum drýgt hefir móti þíns Fødurs heilaga løgmáli, og þar sem í sálu minni er uppsprettá alls þess illa, sem eg med ordum og verkum drýgi og drýgt hefi alla æfi mína, hlýtur sú þín pína, er fyrir þetta fridþægja skyldi, ad hafa verid hin allra skelfiligasta; hvad líka sýndi sig á því, ad hún pressadi út af þér blódugan sveita, og kom þér í þriár reisur til ad bidja þinn himneska Fødur um nockra vægd á henni. Æ minn Herra! láttú nú íhugan þessara þinna sálarqvala deyda í mér allar saurugar girndir og syndugar ímindanir, og gjøra mér þær vidbjódsligar; en aptur á móti uppvekja þér til dyrdar í hjarta mínu heilagar hræríngar, fullar af audmýkt fyrir þér, kiærleika til þín, og laungun til góds og gudligs lifnadar. Einkum géfdú mér, nær eg innvortis edur útvortis freistast til ad syndga, ad hafa stødugliga í minni advørun þá, sem þú gafst þínum lærisveinum: ad vaka og bidja, svo eg falli ecki í freistni! O láttú þitt blessada krossins ord, verda ad því sædi í sálu minni, af hvørju spretti trúin á þína fridþægíngu, vonin á þín fyrirheit og kjærleikurinn til allra þinna heilegu bodorda, svo eg til míns dauda vel undirbúinn, mætti hjá þér eilífa sælu og sálargledi finna. Bænheyr

þad Herra Jesú; vegna allra þeirra sálar qvala er þú fyrir mig líða máttir! Amen!

Fader vor rc. Dróttin blessi rc.

Vers: Fyrir þá písl er þoldir þú», þjóðum til lausnar, minn Jesú!» einkum fyrir þá ofur neyð», end þín í Getsemane leið", veittú mér hjartans værð og frið", í vöku og svefni, þess eg bið»; einkum nær skilst eg verøld við!

---

## 2r Sálmur.

Þakklæti' og lofgjörð þér eg á», þíðasti Jesú! greiða», fyrir giørvalla þjáníng þá», er þig lokfins réði deyda» vegna mín; svo eg findist frí», frá Guðs réttlætis straffi því", syndirnar sem til leida.

Fángadur varst' af fjendum þín" og sjøtrum þúngum reirdur»; meftugir síðan milli sín» morðfúsir bundinn keyrdu"; þetta leidstú sem þolugt lamb», þú svo fyrir mitt bættir dramb»; hjartans ákall mitt heyrdu!

Bid eg ad minníng banda þín» bindi mitt hold óspaka", svo andanum takist ydja sín", í eptirsylgd þinni ad vaka». Stødugu lund og styrk mér gef» ad stríða þar til eg unnid hef»; ei lát mig ótrygd saka.

Af øllu hjarta' eg óska mér» anda þíns hjálpar njóta», svo eg þín fótspor feti hér», en forðist athæfid ljóta". Bind þú med elsku bønd»

um þín» blessadi Jesú sálu mín"; þá mun ei trú mín þrióta.

Láttú svo hvøzt líf né deyd", lucku né þiánfng stríæda», snúa mér réttri lífs af leid»; léna mér styrk ad þræda» gégnum syndar og daudans dal», dýrdar inní þinn skjæra sal», til eilífra yndis gjæda.

## 2r Bæn.

Lof og þackir séu þér, Herra Jesú minn Endurlausnari! fyrir alla þína fridþægjandi vínu yfirhøfud; en þó sér í lagi fyrir það, hvørsu þú létst þig af þínum eiginn lærisveini svikja, svikinn til fánga taka, og fángadan frá einum ránglátum dómara til annars hrekja. Þetta hefir þú minna vegna allt lídа viljad, til at bæta fyrir alla þá ótrygd, sem eg — hvør eptir minni skírnar skyldu vera átti þinn andligur lærisveinn — hefi þér leyndt og ljóst sýnda; já fyrir það, hvørsu eg hefi látid syndanna tillockanir taka mig til fánga, og leida frá einu ránglæti til annars. Æ minn Herra! svo hjartanliga feiginn, sem eg njóta vil þinnar pínu, mér til fridþægingar, hjá þínum himneska Fødur, svo inniliga bid eg þig ad géfa mér nád þíns heilaga Anda til þess, ad íhugan þinna fjørráda, dempi nidur hjá mér alla hræsni í þinni dýrdkun, íhugan þinna banda, kappsmuni ad slíta af mér øll fjøtur syndanna og vondra

girnda, og íhugan þíns hraknings milli dómaranna í Jerúsalem, staduglyndi í þinni þjónustu og eptirfylgd, allt til dauðans. Já, um þetta bið eg þig, minn Herra Jesú! Því inniligar, sem eg veit betur, að nema eg þvílíkt hugarfar sdlíst, nema eg gjörist þinn hreinskilinn dýrðkari, svo vel í því að stríða á móti syndinni, sem stunda eptir helguninni, sæ eg ecki þinnar friðþægíngar notið. Æ bind þú mína sálu með böndum þinnar elsku við þig, svo eingar holds né heims tælíngar, eingar ógnanir né ástríður, orki að skilja mig frá þínum kjærleika, þinni dýrðkun og þinni eptirfylgd. Láttu þinn heil. Anda vera minn leiðtoga gégnum þessa veröldu, hvar syndin, eymdin og dauðinn líka sem hrekja manneskjur milli sín, svo eg luckuliga komist géti inní þann betri heim, hvar réttlætið, sælan og lífið eilífliga blómgast. Varðveit trú mína stöðuga og lát hana ecki þrotna, inn til þess eg sæ þitt frelsi fullkomliga þeckt, og þess með ellum útvöldum óhindraður notið, í þeirri himnesku Jerúsalem eilífliga. Bænheyr mig, Herra Jesú! vegna þeirra vægðarlausu písla, sem þú í minn stað liðið hefir! Æ bænheyr mig, svo skal eg að eilífu lofa þig! Amen. Faðer vor ec.

Vers: Jesú! fyrir þín blóðug bönd=, bið eg af minni greiðir sad= lögmáls fiötur og lasta= hnút=; leið mig úr synda myrkrum út, eptirkom

andi og alla tíd», audnist mér nádar verðd þín bliða". Færist þér lofgiørd fyrr og síd!

---

## 3ie Sálmur.

Enn þá ad nyu eg inni þér» O Jesú! þakkir fróm ar», fyrir písl þína, og þad sem mér» þarmed giørdir til sóma». Farsæld af henni flýtur mín» fridþægíng, traust og von til þín"; samt heill á degi dóma.

Dómssakir á þig, Drottinn minn!» djarfir fallsvottar sóru", aldeilis hværjar á mig finn» andliga sannar vóru»; en þú leidst fyrir allan heim», eg svo kvittadist hreint af þeim», samt þeirra straffi stóru.

Aldrei lát mig nú eptirdags» uppreisn þér móti giøra»; kénn mér í øllu leita lags» løgum þín hlýdinn vera; ødrum á réttan vísa veg», svo verdi med þeim einn talinn eg», er trúar ávøxt bera.

O þú sannnefndi sonur Guds» sonarrétt gèf mér hljóta", undirrót er þad alføgnuds» í eilífu lífi ad njóta»; sálar minnar þig konúng kýs», kémst eg þá inn í Paradís; gledin mun þar ei þrióta.

Þegar þú Drottinn dæmir heim» nær dagar veraldar linna»; æ lát mig verda einn af þeim», sem eilífa sælu finna;» fyrir þinn stránga dauda

dóm», dæmdú mér til með náðar róm» blessanir barna þinna!

## 3ja Bæn.

Hjartanligustu þakkir seigi eg þér, minn ljúfi lausnari Jesú Christi! fyrir allt það sem þú minna og alls heimsins synda vegna, á tíma þinnar pínu, liðið hefir; því þar í er mitt sanna og fullgilda lausnargjald og réttlæti fólgið. Þú varst mín vegna, fyrir lognar sakir, af þínum fjandmönnum ákjærður, svo eg þín vegna yrði ecki, fyrir sannar sakir, móti þíns Föðurs lögmáli, eilífliga fordæmdur. Þér var kénnt um, að þú fráfnérir fólkinu, því eg hafði svo opt snúið mér frá Guði, til hans óvina; að þú fyrirbyðir at géfa keysaranum skatt, af því eg hafði svo þrátt synjað Guði um skatt minnar skyldugu hlýðni; að þú sagðir þig að vera kónginn Krist, af því eg svo tíðum hafði, með syndum mínum, uppreisn giørdt móti konúngi himins og jarðar. Þú varst af öllu því stóra ráði í Jerúsalem, og sjálfum þeim æðsta presti, dauða makligur dæmdur; fyrir það þú játaðir þig Guðs son að vera, af því eg, og aðrir mínir samsyndarar, höfum svo hræðiliga af oss brotið þann rétt, að heita börn lifanda Guðs. Æ Herra Jesú, minn æðsti prestur og talsmaður! veit mér, að allar sakir þíns dauða, sem eru syndir mínar, verði mér

fyrirgéfnar, og láttú Guðs þíns himneska Fødurs, heil. løgmál, ecki géta fordæmi mig fyrir þær að eilífu. En géf mér þó jafnframmi, med-an eg lifi hér í heimi, náð þíns heil. Anda til þess, að eg af fremsta mætti mótistrídi øllu því, og øllum þeim, sem mér vilja frá trúnni á þína fridþægíngu snúa; en þar á móti kapps um kosti, að þjóna sem flestum eg gét til þinnar dýrdkunar; og sjálfur þannig gjaldi Gudi, út af trúnni á þig, skatt viljugrar og sonarligrar hlýdni, midt í því eg, af hreinskilnu hjarta, hvøli þig fyrir Konúng sálar minnar; svo eg verda mætti þín vegna, sannarligt barn þíns himneska Fødurs, hvørju, í krapti þíns mér géfna forþénusti rett-lætis, tildæmd verdi eilíf vistarvera í þínu Köngs-ríki á himnum. Bænheyr mig Herra Jesú! og haldtú mínu máli til sigurs fyrir augliti þíns Fødurs, svo hann láti mig njóta þess, að eing-inn mælti þer málbót, þegar þú mín vegna for-dæmdur varst! Þar fyrir skal eg þá lofa þig og hann eilífliga! Amen. Fader vor ꝛc.

Vers: Sakfeldur med því saklaus varst", syndir veraldar þegar barst", Jesú! því taktú málstað minn" mér til lykrnar, vid Fødur þinn". Sekum þú øllum svipt af mér", svo eg þá leo, sem eptir fer", óhultur lifi og heimi hér!

# 4de Sálmur.

Ó! ad eg gjæti af innstu rót", eins og mín skylda krefur", þér, Jesú! vottad þackar hót", þér — sem mig frelsad hefur» med þinni pín' og dýrum deyd", frá daudanum, synd og allri neyd", já himneska heimvon géfur.

Þú sem á himnum heidrun bert", af heilögum þyggur skara», hádyrdi, spott og forágt flest" fjandmenn þér ecki spara", á þinni píslar þúngu tíd"; þad svo mér yrdi fyrr og síd", upphaf til æru kjara.

Þústradur, hræktur, hæddur varst", hvössum þyrni vid krýndur", purpura slík med forsmán barst", falsheidur var þér sýndur"; reyrstaf í hönd þér lýdur lét», med limsku spotti þig Konúng hét"; þúngliga þú varst píndur.

Þvílík var minna synda sekt" sem tídum nidrad hafdi" med glæpum dýrd þíns Födurs frekt", fordæmíng lögmál krafdi"; þú tókst uppá þig þrælsins sök", þang urdu minnar lausnar rök", drómi hvern daudans vafdi.

Géf mér þinn anda' ad géta nú" greidt þér þá vegsemd kjæru", sem fylgir hlýdni af traustri trú», med trygdu lunderni skjæru"; og leita þess sóma ad líkjast þér" í lífi og dauda, rétt sem ber», svo eilífa' eg ödlist æru.

## 4da Bæn.

Hvornig sæ eg, minn Herra Jesú! goldid þér verdugar þackir, fyrir alla þá píſl og smán, sem þú, á þinna lífſſtunda ſídurſtu dogeum, fyrir mig leidſt! þó allur minn innri madur brynni af heitustu elſku til þín, og girnd ad gjøra þinn vilja, væri ad sønnu meir enn makligt, en þó alt of lítid og lakt þackiætis teikn þér til handa. O! þú heilagi Guds sonur! hvørn allir einglar og høfudeinglar tilbidja, og af blygdun byrgja ſín andlit fyrir tign þinni; hvílíka smán mátt þú mín vegna lída í húsum høfdíngjanna í Jerúsalem! Høfudpreſtanna þénarar ſpottudu þig, byrgdu þína áſjónu og púſtrudu; eins breyttu ſtrídsmenn Pílatuſar vid þig, þeir færdu þig í eina purpura ſlík, feingu þér reirſtaf fyrir veldisſprota í hønd, krýndu þig med þyrni kórónu, og hræktu ſídan í þitt blesſada andlit. A líkan hátt hafdi Heródes, og hoffólk hans, þig ad hádi.

Þetta leidſtú nú, Drottinn minn! fyrir þá ſkuld, ad eg, og adrir andvaraluſir syndarar, høfum ſvo opt rétt sem ſpottad Gud og vanvirdt med syndum vorum, og høfum því unnid til ad verda ad eilífu ſpotti og athlátri, í augſýn allra heilagra. Æ, hjálpadú mér, Drottinn Jesú! fyrir þinn anda, hjálpadú mér, ad eg eptir þetta dragi aldrei vísvitandi gis ad ordum þínum, hvorki med opinberum glæpaverkum, né heimugligri

hræsnis þjónkan. Gef mér audmjúkt og hreinskilid hjarta til þinnar dýrdkunar og þjónustu. Láttú mig aldrei skammast mín fyrir þig né þín ord, heldur adeins fyrir þad líferni til orda og verka, sem móti þeim strídir. Veit mér ad eg meti þad fyrir mína stærstu æru ad fylgja þér í forsmán þinni, bædi med því ad játa þig ovinberliga fyrir minn Gud og Endurlausnara, þó þú af vantrúudum forsmádur sért, og líka med því ad idka þad líferni, sem þínu líkast er, enda þó heimurinn þad einkis akti. Eg vil ánægdur vera med hvar helst þaug kior, hvørt heldur æru edur forsmánar, sem þér þóknast mér, hér í heimi, ad tilskicka, ad eins, ad eg haldi hinni sönnu æru, út af trúnni og kjærleikanum, hjá þínum himneska Fødur, og eg hafi þess vissa von, ad þú á sídan munir upphefja mig, til eilífrar æru og dýrdar, ásamt øllum þínum útvøldum. Vænheir mig, þú dýrd og heidri kórónadi Jesú, vegna allrar þeirrar vanvirdu og smánar, sem þú, fyrir mína skuld í þinni píuu lída máttir, svo eg géti heidrad og lofad þig þarfyrir eilífliga! Amen. Fader vor 2c.

Vers: Þú sem varst hæddur, Herra minn!» þá Heimurinn smádi guddóm þinn;» eilíf svo græddist æra mín", útaf hádúng og píslum þín»; forsmán syndanna ad forda mér», Frelsari minn! eg treysti þér», dag og nótt medan dvelst eg hér!

## 5ti Sálmur.

Lausnari góður, lof sé þér" fyrir líðíngu þína og dæmi"; hvørttveggja sem þú hugdir mér", til hollustu nota kjæmi". Líðíng þín fridar fyrir mig", en fyrimindin þín elskulig" sýnir hvad best mér sæmi.

Þolinmædi hvad þín var stór", í þinni gjørvallri pínu", sýnir, ad eg skal sinnis rór", sjást í andstreymi mínu"; kjærleik sýndir þeim sýndu þér" saklausum versku mótgjørder"; dýrd skín af dæmi þínu

O ad eg gjæti, eins og þú" óvinum grida leitad"; því besta merki' er breyzni sú", ad bródur þinn meigi' eg heita". Fæ eg þá njóta frelsis þín", til fullnadar bóta verkum mín"; nád til þess virdstú veita!

Eins lát mig vera óhræddann", æru þíns nafns ad verja"; lát mér ei daprast dugnad þann", þó dramb samir vilji' áherja"; heldur med einørd halda fast" heidrun þíns kross, þó reyni last" þeirra sem þig afsverja.

Allt til míns dauda lát mitt líf", lífi sameinast þínu", hvørt sem eg reyni kjæti' eda kíf", kjærleik í hjarta mínu", þolgjædi og einør, vidhaldt vel"; svo veitist mér, eptir lidid hel"a eilíf med yndi sínu!

## 5ta Bæn.

Lofadur vertú, minn Herra Jesú! fyrir allt þad ad sonnu, sem þú, mín vegna, svo vel gjördt sem lidid hefir; en þó sér í lagi fyrir þad, hvörsu þú hegdadir þér í þinni píau, mér bædi til fyrirmindar og frelsis. Þú hegdadir þér þolinmódliga, fyrir þínum Fødur í grasgardinum og fyrir þínum fovlurum í Jerúsalem, svo þú upplaukst ecki þínum munni, heldur enn lamb til slátrunar leidt. Þú hegdadir þér einardliga í sannleikans vidurkénníngu, svo vel fyrir þeim ypparsta presti og því stóra rádi, sem fyrir sjálfum landsdómaranum Pílatø. Þú hegdadir þér kiærleiksliga vid þína verstu fjandmenn, svo þú læknadir þann, sem Petur hjó af eyrad, og létst þad vera þitt fyrsta ord á krossinum, ad bidja þínum fovlurum vægdar hjá þínum himneska Fødur. Æ géf mér ad eg gángi í þessi þín fótspor, svo eg verdugliga beri þad nafn, at heita þinn lærisveinn og eptirfylgjari. Veit mér ad líða þolinmódliga hvad helst Gud edur menn kynnu á mig ad leggja í heimi þessum, svo eg aldrei falli í vøl né ørvænníngu. Géf mér samt eingu ad sídur, ad vera óhræddum og einørdargódum ad vidurkénna sannleikann og forsvara, allt til daudans, hvörsu sem hann, eda eg hans vegna, kynni hatadur eda ofsóktur verda. Já géf mér, ad eg aldrei hatist vid þá, sem mér rángt til gjøra, heldur hjartan-

ðiga biðji nú þeirra betrun og sáluhjálp, og jafn vel stydji af allri alúð til þeirra tímanligu og eilífu lucku. Æ Herra Jesú! lát þinn heil. anda fastliga innræta þetta hugarfar sálu minni, svo sem eitthvert bið vissasta merki þess, að í mér búi lifandi trú á þig og þína fridþægandi pínu og dauða; hvörrar trúar endalok þú gef mér síðan að öðlast, nefniliga það eilífa líf, hvar þolinmæðin mun krýnast, sannleikurinn sigri hrósa og kjærleikurinn drottna, meðal allra þinna útvaldra að eilífu. Bænheyr mig vegna þinnar heilögu þolinmæði; þú sannleikans og kjærleikans himneski kóngur, svo eg þig vegsamað fái með öllum útvöldum, um aldir alda! Amen. Faðer vor ꝛc.

Vers: Það er undirrót þess sögnuðs» þolinmóðasta lambið Guðs!" sem eg í vænd um eilífð á», að þú varst píndur mennum hjá»; kjærleikur brann í brjósti þér", ble'sadur vildir hjálpa mér»; gef eg þín fótspor feti hér!

## 6ti Sálmur.

Þúsundfaldt stærri þackargjörð» þér, Jesú! greida bæri", af þinna leysíngja þjóð á jörð», enn þá sem eg vesæll færi». Æ, eg vil samt það greida' eg get», greidslu mína í náð þú met!» rétt sem hún velgreidd væri.

Ómælanlig var elska þín», alla þá qvöl að líta», viljugur sem leiðst vegna mín», svo veittist

mér nádin fríða»; fjötradur, lamin, fleingdur varst», flettada af þyrnum krónu barst», á kross-inn keyrdur sídan.

Eg hafdi sjálfur unnid til», ad eilífu verda píndur», í dauda straffsins djúpum hil", dóm slíkan lög þín sýndu»; en, Herra! þú sóktir sjálfum þér», sárbeitan í þann písla hver»; aldrei svo yrdi' eg síndur.

O, eg gjæti elskad þig», sem einkénni er þinna sauda»; og ad mín elska sýndi sig", í sæld bædi' og kjörum nauda»! Æ, ad eg galdar girndir mín" géti med písla minníng þín» dempad, allt til míns dauda.

Hugbraustur gét eg blackad þá» hédan — til farar minnar»; mun eg, Jesú! þig sjálfan sjá», í sælu dyrdar þinnar"; sæ eg þar reyndt hvad frelsan þín», til fridþægingar sálu mín», gjördt hefir gott ávinna.

## 6ti Bæn.

Þúsundfaldt stærri þackir og lofgjörd sé þér, minn elskuligi Frelsari Her a Jesú Christi! fyrir alla þína fridþægiandi píl, sem þú mín og allra manna vegna lidid hefir, þúsund stærri, seigi eg, enn eg veikt og voladur syndari sæ í tje látid! O hvörsu ómælanlig var þín elska, sem kom þér til ad gésa þig viljugan undir þær grimmu píntíngar, er þínir óvinir á þig lögdu! Þú ljest fjötra þig, sem frið-

arspillara, þústra þig sem lastaþræl, krýna þig þyrnum sem kóngdóms spottara, húðstrýkia þig sem versta illvyrkja og krossfesta þig sem stærsta ábóta-mann. Æ þetta leidstú, minn Jesú! allt fyrir mína skuld. Eg hafdi seldt mig til ad vera þræl syndarinnar, og léd alla mína limu ráng-lætinu til verkfæra; þessvegna hlautst þú á öllum þínum líkama limum plágadur ad verda. Eg hafdi sem landrádamadur uppreisn giørdt móti kongi himins og jardar, og unnid til eylífs Drottinssvikara straffs med dioflinum og öllum hans árum; en þú tókst fyrir mig einn vid öllu straffinu, svo eg Frelsadur yrdi, fyrst frá þræl-dómi syndarinnar hér í lísi, og sídan frá hennar straffi annars heims. Æ géf mér þá nád, ad eg til eins þakklætis og elsku merkis vid þig fyrir þessa þína stóru velgiørd, giøri þad sama vid minn gamla mann og girndir míns holds, sem þínir óvinir vid þig giørdu Géf mér ad eg leggi fiøtur á mínar vondu gédshræríngar; þvíngi minn vilia til ad þióna þínum vilja; dempi nidur hiá mér alla drambsemi og sjálfþótta; færi mína sofandi samvitsku med svipum þíns lögmáls og krossfesti mitt hold med þess girndum og tilhneig-íngum. Géf ad þessir ávextir lifandi trúar sig hiá mér æ framar og framar í liósi láti, svo eg þinni mind æ líkari verdi; uns eg á himnum full-komliga leystur frá allri syndarinnar þián og þræl-dómsoki, sæ ad ríkia med þér í þinni dýrd ad

eylífu. Bænheyr mig, o Jesú! vegna þinna sistra, þústra, húdstroku og krossfestíngar; ja, vegna alls þess, sem þú misst vegna lidid hefir, svo eg þig ad eylísu lofa og vegsama megi! Amen. Fadir vor rc.

Vers: Lifandi Jesú lof sé þér", lífgjöf fyrir, sem veittir mér", med húdstroku þinni kryn-sna', kross", hvolum daudans og benja foss" brína láttú þad allt mér á"; vruggur strída mun eg þá"; en loks á himni fridland fá!

## 7di Sálmur.

O! ad eg hefdi Engla mál», elsku vegsama þína», Jesú! er liest þitt líf og sál". Lausnar til medals pína";, sórn Gudi slíka tærdir þá», er forlíka verdd alla má», eins þar med syndir mína.

Svo mögnud syndin eingin er», ad kunni mér ad grunda», trúar augum ef til þín hér» tárugum lypti' í anda»; eignandi mér þitt offur blód», út sem helltir til lausnar þjód"; sú von má stödug standa.

Hefir nú lögmáls hótan stríd", bitt þig fyrir oss alla»; þinn daudi er ordin lífgjöf lýd»; lífid mun þeim tilfalla», sem elska þig og treua' á traust», trygd þér vottandi hræsnis laust», en fordast glæpa galla

Daudi þinn, Jesú! deydi í mér», daudann er sálu grandar»; í lifandi trú svo lifi' eg þér", líss medan dreg eg anda»; óttast eg þá ei af-gáng minn», opnad fyrir mér lokfins finn» sælu-port líssins landa.

Eylíst Sabbath í Eingla borg", eg mun þá gladur halda», nær horsin er burtu synd og sorg», er sælan veitt þúsundfalda». Dagur sá renni dýr sem fyrst», ad dýrkad fái' eg þig, Jesú Christ!» já, dýrkad um aldir alda.

## 7da Bæn.

Ó ad eg hefdi Eingla hjarta og túngu, til ad þacka þér, minn Herra Jesú! fyrir þinn blóduga fornfæríngar dauda, sem þú á krossins gálga, á Golgatha fjalli, fyrir mig útstódst. Þar frambarst þú, med sjálfum þér, þá forlíkunar fórn, sem einsömul nægir, til eylífrar fridþægíngar fyrir alla. Þetta var eitt þvílíkt offur, til hvørs allar fórnir gamla Testamentisins midudu, og af hvøriu þær høfdu allt sitt gildi; þvílíkt offur, sem þínum himneska Födur líkadi svo vel, ad hann krefst nú eingis annars offurs fyrir syndir heimsins framar; svo ad hvør og ein sú manneskja, hvørsu stór og þrálátur syndari, sem hún ádur verid hefir, ef hún í sannri ydrun, med lifandi trú, ad samfarandi einlægri lífernis betrun, framber þetta offur fyrir hans heilaga augliti, fær vissuliga allra sinna synda fyrirgéfníngu. Med þínum dauda, er Guds lögmáls hótan um daudan, sem syndarinnar straff, uppfyllt, svo þar er þá ei leingur nein fordæmíng á þeim, sem eru þér, fyrir trúna, sameinadir. Já ecki einasta fèndi þinn daudi sig kraptugan í því, ad hindra afleidslurnar, innsigla syndirnar og fridþægja fyrir misgjørnínginn, heldur og einnin í því ad innleida eitt eylíft réttlæti. Því eins og syndin ríkti til daudans fyrir Adams ránglætis skuld, svo skal nádin, fyrir þitt réttlæti, ó Jesú! ríkja til eylífs Lífs.

Ó hvørsu sterkur var þinn kærleiki, Drottinn minn og Gud minn! já, sterkari enn daudinn, þar þú ei særdist undan ad deya í minn og annara stad, sem allir vorum þó, af náttúrunni, þínir óvinir.

Hvørnig sæ eg, minn Lausnari! inní þér nockurt verdugt þacklætis merki aptur á móti,

fyrir þessa þína ómetanligu velgjørd? Eg gét þad med eingu ødru svo sem því, ad eg, þér til heidurs, kappkosti, af øllum mætti, medan eg lifi, ad deya frá syndunum, en lifa réttlætinu. Æ, látú þá krapt þíns dauda, fyrir þinn anda, verka þetta hjá mér, þar eg annars hefi eingin not af dauda þínum, og hlýt allt eins ad deya í mínum syndum, þó þú fyrir þær ádur dáid hafir.

En nær þú géfur mér þetta framqvæmt ad géta, þá má eg hlacka til míns dauda, sem annarar hátídar, þar hann verdur mér þá inngángur til himneskrar sælu, hvar eg, ásamt øllum þínum heil: Einglum og útvøldum, fæ ad halda ein gledi- ligt dýrdar sabbath í þínu ríki eylífliga. O bænheyr mig um þetta, Herra Jesú! og géf ad sá blessadi dagur meigi upprenna sem fyrst, ad eg fái ad sjá þig í þinni dýrd, til ad dýrdka þig þar og þacka þér fyrir þinn fridþægjandi sórnar dauda! Amen. Fadir vor ꝛc. Drottinn beisi ꝛc.

Vers: Fyrir þitt dýra fórnar blód», til frelsis allri sem leitsiú þjód» úthellt, Jesú! eg innt þér» audmjúkar þackir; veittú mér», ad daudi þinn verki velferd mín», svo verdi' eg í Kíssins sal til þín» hafinn, hvar eylíf dýrd ei dvín!

Merk: Sálmarnir hér ad framan kunna ad syngjast, eptir sem hver vill, med þessum løgum: Um daudan géf þú Drottinn mér. — Eylífur Gud og Fadir kjær. — Lifandi Gud — þú lít þar á. — Þá linnir þessi líkams vist, — og fleirum; en Versin med þessu lagi: Heidrum vér Gud af hug og sál.

---

Kaupmannahøfn 1822.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.